30 cts

*J. MAGNUS BJARNASON:*

# SÖGUR OG KVÆDI.

*Arnljotur B. Olson*






**Winnipeg.**
PRENTSMIDJA LÖGBERGS 1892.

„Jeg skal nú kasta mjer út í fljótið, af því að þú ert svo slæmur við mig.“

En honum brá ekki, því hann vissi að henni var ekki alvara.

Í sömu andránni var kallað með ógurlegri röddu:

„Varaðu þig stúlka; þú ert að detta!“

Henni varð billt við þessi orð, tók viðbragð og ætlaði að komast í faðm unnusta síns; en af fátinu, sem á henni var, fjell hún á bak aptur og ofan í ólgandi straumrótið fyrir neðan.

Brúin var þjettskipuð af fólki — þar var maður við mann, en enginn hreyfði sig. Einhver dauðans-ógn lagði fjötra sína yfir fólkið. Það leið yfir unnustann, en enginn gaf því gaum, því allir stóðu á öndinni, og störðu ráðaleysislega út á fljótið.

En það var ekki nema fáein augnablik, sem þessi kyrð hvíldi yfir fólkinu, því strax er stúlkunni skaut upp, kom hreyfingin á það. Allir vildu nú verða fyrstir til að bjarga henni. Menn ruddust hvorir um aðra til að komast út af brúnni og ná í bát. En engum hugkvæmdist að stökkva út af brúnni, og bjarga stúlkunni á sundi. — Líklega hefur mönnum ógnað að stökkva svo hátt niður. Jú, það var einn maður þar á brúnni, sem þorði það, og það var fátæki útlendingurinn,

sem enginn hafði veitt eptirtekt — það var veslings, einmana Íslendingurinn. Hann stóð hjer um bil á miðri brúnni. Hann var einn síns liðs, raunalegur og niðursokkinn í þungar hugsanir. Að eins var hann 22 ára gamall, ekki hár vexti, en þrekinn og snarlegur. Hann hafði komið þá um morgunin til borgarinnar, í fyrsta sinni, og þekkti þar engan.

Það var þessi vinalausi útlendingur, sem til þess varð, að varpa sjer út í straum-ólguna á eptir stúlkunni. Svo var mikið kastið á honum, að hann kom við botn, en honum skaut upp að yfirborði vatnsins aptur, eins og hann hefði verið fjalarstúfur. Hann hristi vatnið af ljósa hárinu sínu, og horfði í kring um sig; og rjett fyrir framan hann var stúlkan — hún var að sökkva í annað sinn. Fallega og sterklega svamm hann þangað, sem hún sökk, og stakk sjer niður á eptir henni; á svipstundu var hann búinn að ná henni, og var kominn með hana á þurt land, áður en nokkur bátur var kominn í hreyfingu.

Fólkið rak upp fagnaðar-óp. Vinir og vandamenn stúlkunnar þutu til hennar, og ljetu flytja hana heim. Hún hresstist svo skjótt, að hún kenndi sjer einkis meins á brúðarbekknum kveldið eptir.

Fólkið sló líka hring utan um Íslendinginn,

sem stóð niðurlútur og þegjandi í miðri þyrpingunni. Fjórir elfdir karlmenn tóku sig til og báru hann á höndum sjer heim að skrautlega húsinu hans Carringtons stórkaupmanns, og fjöldi manns fylgdi eptir, því að allir vildu vita hver þessi hugaði og snarráði maður væri.

Gamli Carrington tók hann í faðm sjer, og danzaði með hann fyrir framan húsdyrnar, og þakkaði honum, með mörgum fögrum orðum, fyrir þetta drengilega bragð. En Íslendingurinn sagði ekki neitt, því hann skildi ekki eitt orð í enskri tungu.

„Hvað heitir hann? Hvar á hann heima og hversstands maður er hann?“ sagði hver við annan, en ekkert svar kom frá ókunna manninum. Þó varð það á endanum, að menn komust einhvernvegin að því, að hann var Íslendingur nýkominn frá ættjörð sinni.

„Nú, gott og vel“, sagði gamli Carrington, „hann er útlendingur — hann er Íslendingur — hann á engan að í þessu landi, og engan þekkir hann hjer; ja, svo vel og gott, hann skal vera í mínu húsi, þar til hann getur talað vort mál. Jeg skal vera faðir hans þangað til. Það má ekki minna vera.“

Svo leiddi Carrington gamli hann inn með

sjer, vísaði honum í skrautlegt herbergi, og ljet að vörmu spori búa honum nýjan klæðnað.

„Þetta er herbergið þitt, sonur minn, og hjer máttu vera eins lengi og þú vilt; þegar þú þarft einhvers við, þá láttu mig vita. Þú átt að vera hjer, sem minn eiginn sonur.“

En ókunni maðurinn sagði ekki neitt — hann skildi ekki.

## II.

Svo liðu vikur og mánuðir. Íslendingurinn var kyrr í húsi Carringtons gamla, og því lengur, sem hann var þar, því meira dálæti var haft við hann; og það var eins og gamli stórkaupmaðurinn ætti hvert bein í honum. Öll stund var lögð á að kenna honum að lesa og skrifa ensku. Hann var klæddur eins og höfðingi, og ekkert mátti hann starfa, sem erfitt var. Á allar lundir var reynt að gera honum til hæfis — allt hugsanlegt var gert til að gleðja útlendinginn; en allt var árangurslaust. Hann var stöðugt niðurlútur og niður sokkinn í einhverjar sorglegar hugsanir. Aldrei brosti hann, og aldrei sást minnsti vottur um gleði í gráu, meinleysislegu augunum hans. Hvernig stóð á því? Hvað gekk að honum?

Það vissi enginn nema hann.

Hvað vildi hann þá?

Hann vildi deyja.

Og eptir þriggja ára dvöl, í húsi stórkaupmannsins, andaðist hann í örmum hins trygga, góða, gamla mans.

## III.

[illegible]

„Hann er hérna fram í eldhúsinu“, sagði gestgjafinn sneypulegur.

Læknirinn varð auðsjáanlega hissa, þegar hann heyrði, að gestir væru látnir vera fram í eldhúsi. Gestgjafinn tók ljós og gekk gegn um húsið fram í eldhúsið og læknirinn á eftir honum.

Í einu horninu í eldhúsinu lá ókunni maður-

lagði vonir mínar. Faðir hennar harðbannaði henni að fara. Það var því ómögulegt fyrir hana að komast til mín. Ég skrifaði henni á ný, og reyndi að hughreysta hana eins og ég gat. Svo kom annað bréf til mín, en ekki frá henni, heldur frá föður hennar; og óttalegt bréf var það — hún var orðin vitskert. Þetta var ofþungt högg fyrir

[illegible]

og gestgjafinn og Markús á eftir. Alt var í uppnámi í húsinu. Að fáum augnablikum liðnum var Jón kominn í mjúka sæng í borðstofunni, og allir gestirnir og heimafólkið kraup í kring um hana. Jón var færður úr fornfálegu yfirhöfninni, sem var það eina fornfálegt á honum. — Hann

3

Arnljotur B. Olson

áður en hún fór að heiman, en móðir hennar dó á hafinu, og hún átti hér ekkert skyldmenni, utan eina frændkonu langt suður í ríkjum. Grátandi hafði hún sett sig niður í einu horninu á emigrantahúsinu, en ekki hafði hún lengi setið þar, þegar ensk kona kom til hennar með túlk og

„Eru þá allir komnir í sleðann", sagði Markús í því hann stökk upp á sætið og veifaði svipunni. „En hver kemur þarna?" og um leið benti hann á mann í fornfálegri yfirhöfn, sem gekk að sleðanum.

„Ó, það er víst gamli betlarinn hann Kobbi", sagði Lilja, [illegible]

Og svo [illegible] þær fallegu lokkunum hennar upp í hnakkagrófina, og síðan sáust aldrei fljettur á herðum hennar. Hún hafði líka heitstrengt, að ganga aldrei að því, að eiga enskan mann, hversu ríkur og fallegur sem hann væri.

En svo kom það fyrir, að einum piltinum, sem átti heima á næsta hóteli, leizt makalaust vel

sagði Markús; „en ég held ég geti ekki tekið þig með — mér er svo illa við flækinga, hvort þeir borga, eða borga ekki“.

Og í því sló hann í hestana, sem þutu af stað eins og elding. En stúlkurnar hlógu dátt og hrósuðu Markúsi fyrir hreinlyndi og dyrfsku. Þær þóttust vissar um að

hennar, og hún sá að maðurinn var elskulegur. Og svo var það einn góðan veðurdag, að hann bað hana um hjarta og hönd; og hún gat þá ekki sagt nei, því hún elskaði hann. En hann dró 25 dollara trúlofunarhring á hönd hennar og kyssti hana fyrsta kossinn, sem komið hafði á varir hennar í Ameríku. Svo liðu þrjú ár frá því

hafði ætlað í fyrstu. Henni þótti það óbærilegt ef hún gæti ekki staðið við orð sín. Hún hafði ekki fengið bréf frá Jóni í þrjár undanfarnar vikur, en hún hafði lesið það í síðasta blaðinu, að hann hefði fyrir stuttu síðan brugðið sér burt úr borginni, en væri væntanlegur aftur eftir fáa daga. Hún var viss um, að hann yrði kominn aftur fyr-

[illegible]

Svo settust þau niður á gangstéttina, og hún fór strax að spyrja hann um það, til hvers hann vildi finna hana þangað. Ja, hann kom nú eiginlega ekki til annars en að kveðja hana — kveðja hana í síðasta sinni — og þakka henni fyrir öll gæðin; því nú ætlaði hann á morgun til Englands,

um, var barið á framdyrnar á húsinu. „Enn einn gesturinn“, sagði gestgjafinn, glaður.

„Það er vafalaust betlarinn, sem elti okkur í allan dag“, sagði Markús; „mér lá oft við að stökkva niður af sleðanum og berja hann fyrir ó-

húsið að bakdyrunum, og leiddi hann inn í eldhúsið.

„Hér geturðu verið í nótt; þú mátt kynda stóna eins og þú vilt, svo þér sé heitt. Þarna er líka gólfteppi og tvær ábreiður, sem þú mátt og nota“.

Arnljotur B. Olson

# Steinn Steinsson.

Það var rjett fyrir dögunina einn morgun um vorið 188., að maður stóð aleinn á fremsta oddanum á einum tanganum, sem gengur út í Winnipeg-vatn í Nýja Íslandi. Það var í leysingum, og ísinn var um það að hverfa af vatninu; allar dældir voru fullar af nýbræddum snjó, og hver lækur veltist fram ólgandi eins og stórelfur. Vegirnir voru ófærir vegna bleytunnar, og aumingja Nýja Ísland átti fáum hrósyrðum að fagna um þær mundir. — En vorið var kallað „dauðans vor".

Sem sagt, stóð maður á fremsta oddanum á einum af hinum mörgu töngum, sem einkenna nýlenduna. Maðurinn var hann Steinn Steinsson — Íslendingur í húð og hár; hann var vel meðal maður á hæð og fallega vaxinn, með blá augu og ljóst hár, sem Íslendingar þekkjast svo vel af. Á karlmannlega enninu hans hvíldi þungur rauna-

svipur, en óeðlilegt kæruleysis-bros lék um varirnar. Hann hélt sterku örmunum sínum krosslögðum á bringunni, og horfði stöðugt á hvítfyssandi brimgarðinn, sem sauð við tangann, og sem huldi við og við stóru steinana fyrir framan. Stormurinn hvein í trjátoppunum, en máninn, sem nú var að tapa afli birtu sinnar, fyrir bjarmanum á austurloftinu, óð í skýjum. Allt var svo skuggalegt umhverfis, en Steinn Steinsson gaf því ekki gaum; hann hræddist ekki storminn, ekki vatnsrótið, og ekki dauðann. Það var annað sem hann óttaðist meir — það var lífið. Lífið var honum óbærilegt, og þó var hann einmitt í broddi lífsins — að eins 25 ára gamall. Hann langaði svo mikið til að deyja, en hann gat ekki dáið án þess að verða beinlínis sjálfur orsök í dauða sínum; en það fann hann að var sjálfsmorð, og honum hrylti við því, því hann bjóst við dóminum og eilífri tilveru. En þrátt fyrir það stóð hann þarna, fastráðinn í þeim ásetningi að kasta sér í brimgarðinn þegar dagur rynni, — já, einmitt á sjálfum afmælisdeginum hans.

En til þess nú að segja af hvaða ástæðum hann vildi deyja, verð ég að gefa ágrip af æfisögu hans.

Steinn Steinsson var fæddur á norðanverðu Íslandi; foreldrar hans dóu þegar hann var mjög

ungur, og hann var alinn upp af fátækum hjónum. Hann var fljótur að læra kverið sitt og fékk bezta vitnisburð hjá prestinum sem fermdi hann. En ætíð hafði hann verið kátur og frískur, og það mátti heita, að allt af ljeki bros um varir hans, jafnvel þegar sorgin og harmurinn var að nísta hjarta hans. Hann hló, satt að segja, að öllu, og oft var hann barinn fyrir það; en aldrei sýndi hann nein strákapör, því gott var hjartað hans. Hann virtist bara vera fæddur með þeim ósköpum, að vera síhlægjandi. En menn tóku það illa upp, og sögðu að hann vær kærulaus og forhertur, og að engin fín taug væri til í honum.

Svo fór hann vestur um haf þegar hann var 19 ára, og þá var hann orðinn þrekinn og sterkur; og út á járnbrautina fór hann eins og fleiri góðir Íslendingar hafa gert; og sterklega mokaði hann sandinum og leðjunni, og þá var hann eftirlætið verkstjórans. En þegar verkstjórinn talaði til hans þá hló hann og flissaði, svo allir innlendir samverkamenn hans, og verkstjórinn sjálfur, álitu hann vitlausann og urðu hræddir við hann. „Því hlærðu svona ákaflega“, spurði verkstjórinn hann einusinni; en Steinn hló. „Maðurinn er brjálaður“, sagði einn vinnumaðurinn, og að því hló Steinn enn meira, þó hann reyndar skildi ekki hvað sagt var. Og því meira sem talað var við



Stein á ensku, fyrst framan af, þá var það til þess að koma honum til að hlægja því ákafar. En hvar sem hann var í vinnu og hversu mikið sem hann hló, þá hafði hann ætíð hylli verkstjóranna, vegna þess að hann var duglegur að moka; og með tímanum fór hann að eiga töluvert af peningum, því ekki eyddi hann þeim fyrir óþarfann.

En svo kom það fyrir, að hann fékk ást á stúlku; og stúlkan hjet Gerður Guðbrandsdóttir, forkunnar fríð og ung. Og margt kvöldið sat hann með hana í litlu stofunni í nr. 56 á B. stræti í Winnipeg; og henni líkaði makalaust vel að heyra hann hlægja, því hún var glaðvær sjálf. Og hlægjandi bað hann hennar, og fékk já — undur stórt já! Svo var nú sjálfsagt að fara að horfa sér út fyrir landi, því búa vildi hann. Og einusinni um haust kom hann til Nýja-Íslands, tók sér land og settist að í húsi hjá kunningja sínum, með unnustuna sína, hana Gerði. Um vorið hugsaði hann að verða búinn að koma sér upp húsi, og þá ætlaði hann að halda brúðkaup sitt.

En vonir hans brugðust.

Á bænum Finnsstöðum í Nýja Íslandi, þar sem Steinn var til húsa, var fleira af ungu fólki en þau Gerður; meðal annara ungra manna, sem hvíldu sig þar eftir erviði sumarsins, var hann

Jón Jónsson, með alla sína blíðu og tilfinningarsemi; og satt var það, sem sagt var, að hann gekk í augun á ungu stúlkunum í Nýja Íslandi, og aumingja Gerður komst ekki heldur undan töfrakraftinum sem streymdi úr augum hans. Þegar leið fram á veturinn, fór henni að lítast æ betur og betur á Jón, en fékk æ meiri og meiri óbeit—á hlátrinum hans Steins, enda var henni líka innblásið það af Jóni og kunningjum hans, að Steinn væri ekki með öllum mjalla, eða hitt að hann væri skeytingarlaus þrjótur, sem enga kurteysistilfinningu hefði. Og þar kom að um síðir, að hún sagði Steini hreint og klárlega, að hún gæti ekki orðið konan hans, án þess þó að bera nokkra ástæðu fyrir sig. En hvað gerði hann þá? Hann bara hló, og hló svo hátt, að hún varð hrædd og hljóp frá honum. Engin gat séð reiði eða sorg á Steini, og fólk fór að tala um það, að á þessu mætti sjá tilfinningarsemi hans. „Honum hefir ekkert þótt vænt um hana“, sögðu menn, „honum stendur á sama“. Hann heyrði það og hló að því. Hann hélt áfram að vera á Finnsstöðum þó hún væri þar, og vann á landinu sínu um veturinn. Oft talaði hann við Gerði um hitt og þetta, eins og ekkert hefði ískorist, og þægilega talaði hann við Jón Jónsson, og spilaði *vist* með þeim á kvöldin; og þegar Jón og Gerður litu

brosandi hvort til annars, þá brosti hann líka. Allan þann vetur virtist hann leika við hvern sinn fingur, og menn fóru að pískra um það sín á milli að hann mundi hafa hug á einhverri annari stúlku, og að kátína hans kæmi til af því, að hann hefði losast svo þægilega við Gerði.

En það var ein sál í nýlendunni sem verulega þekkti Stein, og sem sá það ógurlega böl, sem brann í barmi hans, því hún þekkti hann frá barnæsku — það var hún Gróa. Hún var ung og engum háð; og blíðan og viðkvæmnin skein út úr litlu, bláu, tindrandi augunum hennar. Hún dvaldi hjá frænku sinni í nýlendunni á vetrum, en á sumrum var hún í vist í Winnipeg. Margur hafði beðið hennar, en öllum hafði hún neitað, því hún elskaði að eins einn mann, sem þó ekki vissi neitt um ást hennar—það var Steinn Steinsson. Það var hún ein sem þekti lundarfar Steins og sem sá inn í sálu hans gegn um hulinsblæju gleðinnar, sem hann tók aldrei af sér. Hún vissi vel, hver ásetningur hans var — hann var þreyttur á lífinu og vildi deyja; og hún hugsaði sér að vakta hvert fótspor hans. Henni veitti líka hægt að vita, hvernig honum leið, því hún var í húsi á að gizka 50 faðma frá Finnsstöðum, og hún var þar daglegur gestur. Hann talaði við hana sem aðra, þægilega, og brosti hýrt framan í hana og

hafði ætíð gamanyrði á reiðum höndum; en hún sá böl hans í gegnum það allt.

Seint um veturinn týndi hann einhvern veginn 53 dollurum, sem þá var aleiga hans, og sem hann aldrei fann; hann leitaði að sönnu lengi að þeim, og svo hætti hann loksins hlæjandi og sagði: „Þeir mega fara,‹ ég fæ annað eins aftur, þegar ég er búinn að búa í nokkur ár“. Og svo hló hann dátt yfir því, hvaða klaufi hann hefði verið að týna peningunum.

Og svo kom vorið — blauta vorið — með allt sitt vatn og leðju og leiðindi; og þá giftu þau sig, Gerður og Jón, og Steini vafalaust til kvalar, bauð Jón honum í veizluna. Brosandi kom hann í veizlusalinn og borðaði og drakk með engu minni lyst en hinir gestirnir, og talaði og skemti sjer engu síður; og brosandi óskaði hann brúðhjónunum til allrar hamingju og blessunar. Og þegar komið var undir dag fór hann kátur og hress út í myrkrið, og engan grunaði annað en hann færi heim til sín — því veizlan var ekki haldin á Finnsstöðum; — utan Gróu eina — hana grunaði hann mundi fara eitthvað annað.

Það var líka rjett. Hann fór ekki heim, heldur stefndi hann að vatninu. Ljettilega stökk hann bleytupollana og torfærurnar, sem á veginum voru; og ljettilega var honum líka fylgt í

náttúrukrinu. Hann stefndi út á tangann og fremst á oddanum nam hann staðar, krosslagði sterklegu armana sína og horfði áhyggjufullur á brimgarðinn.

„Nú skal til skarar skríða“, sagði hann og kalt bros ljek um varir hans; „nú get ég ekki lifað lengur, ég verð að deyja þó ég sé enn ungur, og dauðinn sé bitur, og dómurinn verði strangur, og eilífðin sé löng — samt verð ég að deyja. Afmælisdagurinn minn er á morgun, þá er ég 25 ára; — ég skal bíða eftir bjarmanum af honum“.

Svo þagnaði hann og rólegur raunasvipur breiddi sig yfir enni hans, og hann leit vonarfullum augum á brimið. Svo kom bjarminn af deginum, sem færðist smátt og smátt, hægt og hægt, upp á austurloftið; og um leið færðist dauðinn, smátt og smátt, hægt og hægt að hinum unga manni, sem þráði hann af öllu hjarta. Hann sté með hægð áfram eitt spor, og svo annað spor, og hið þriðja og fjórða, og um leið varð hann votur af úða brimsins. Fram hélt hann stillt og gætilega — fram að öldunum. Hann sté svo upp á stóra steininn fram undan sér, og þar stóð hann, um nokkur augnablik, eins fastur og steinninn sjálfur, þó froðugar brannirnar köstuðust yfir hann ótt og títt. Hann leit sem snöggvast til lands, eins og ofurlítið hik kæmi á hann; og víst var

það að tvö sterk öfl börðust í brjósti hans. Skynsemin sagði: vertu hetja og lifðu, en sorgin og kvölin hrópuðu: fram, fram í djúpið og dauðann og eilífðina! Og sorgin og kvölin mátti betur; hin einbeitta dauðaþrá kom aftur, enn sterkari og enn ákafari enn áður. Hann signdi sig með hægð, varirnar bærðust, og hann leit til himins vonaraugum fullum af tárum, því á náðir himinsins ætlaði hann nú að flýja. Svo setti hann hendurnar upp yfir höfuðið eins og vanur sundmaður; í háa loft tók hann sig, og á sama augnabliki var hann kominn í hinn brúsandi brimgarð.

En þey! Það skauzt einhver fram af tanganum; – það var Gróa. Hún sveif eins og elding fram í vatnið, og upp á steininn komst hún, og ofan af honum aftur sópaði aldan henni, en hún komst upp á ný og kastaði sér út af honum hinu megin. Hún náði með snarræði í manninn, sem hún elskaði, sem nú var að berjast við dauðann; — hún náði á honum dauðahaldi — og hrannirnar færðu hana með herfang hennar smátt og smátt nær landinu. Við og við skullu þær yfir hana, en hún kom upp á milli og náði andanum. Í dauðans ofboði náði hún fótfestu á þurru landi og með miklu erfiði dró hún manninn upp í fjöruna meðvitundarlausann, en þó með lífi. Hún hjúkraði honum þar eins og framast var unnt, og

eftir litla stund var hann kominn til sjálfs sín aftur.

„Því varstu að gera þetta?“ spurði hún þegar þau voru komin á leiðina heim.

„Ég var að þvo af mjer veizlu-rykið“, svaraði hann og hló.

„Þú verður nú að koma heim með mjer“, sagði hún; „ég þori ekki að sjá af þér; því ég veit hver ásetningur þinn er“.

Svo fylgdist hann með henni heim og hló að öllu, sem hún sagði við hann á leiðinni. Allir voru í fasta svefni á Finnsstöðum, þegar þau komu þangað. Hann gekk hljóðlega inn og dreif sig strax ofan í rúm, en hún fór heim til sín. Svo þegar að fólk fór á fætur um morguninn, svaf Steinn vært í rúmi sínu, og enginn nema hann og Gróa vissi hvað skeð hafði frammi á tanganum um nóttina.

Svo liðu dagar og vikur, að hún gætti hans naugið, svo hann færi sér ekki að voða; og einu sinni mátti hún til að segja honum, hvað mikið hún elskaði hann, og að hún þess vegna hefði lagt lífið í hættu fyrir hann; og af því hún nú hefði frelsað hann úr dauðans greipum, þá áliti hún hann sína eigin eign.

„Jæja, Gróa, því tekurðu ekki þína eigin eign — ég er hjá þér“, sagði hann.

Og svo hló hann unz tárin runnu í straumum niður kinnarnar, síðan kysstu þau hvert annað ótal heita kossa og allt af hló hann á meðan.

Um haustið voru þau gefin saman í hjónaband, og eins og nærri má geta, buðu þau Jóni og Gerði í veizluna sína; og ég hefi heyrt það sagt, að Steinn hafi brosað meðan á serimoníunni stóð, og að hann hafi litið kýmnislega framan í Gerði, sem bleytt hafði allan vasaklútinn sinn með tárum, því hún hafði iðrast eftir því að hafa svikið hann.

Svo bjó Steinn Steinsson nokkur ár með Gróu sinni í Nýja Íslandi, síðan flutti hann sig suður í ríki til fólksins hennar; — og þar hefir hann grætt á tá og fingri.

---

*Arnljotur B. Olson*

Vitskerti ritstjórinn.

Arnljótur B. Olson

# Vitskerti-ritstjórinn.

Enginn skyldi ætla, að það hafi orðið á einni nóttu að hann varð brjálaður; nei, það varð með löngum aðdraganda — með óskiljanlega löngum aðdraganda. Brjálsemin kom yfir hann smátt og smátt og verkaði á hann svo makalaust einkennilega, að læknarnir botnuðu ekki minstu ögn í háttalagi þessa voðalega sjúkdóms.

Menn tóku fyrst eftir þessum ósköpum, þegar ritstjórinn var laust fyrir innan fermingu — hann var samt ekki orðinn ritstjóri þá. Það byrjaði þannig, að hann einn góðan veðurdag, sat inni á rúminu sínu og var að lesa í geógrafíunni hans föður síns, og kom að lokum að orðinu „*annes*".

„*Annes?*" sagði hann við sjálfan sig. „Hver skrattinn getur þetta *annes* verið; — það er þó

aldrei prentvilla, og eigi að vera *Hannes* — nei, ekki er það".

Svo fór hann að tyggjast á þessu einkennilega orði.

„Annes — annes — annes—annes—annes"; og svo röri hann þarna á rúmstokknum í heilan klukkutíma með geógrafíuna á hnjánum og staglaðist allt af á: „Annes — annes — annes".

Og hamingjan má vita, hvað lengi hann hefði setið þarna og barizt við þetta *annes*, hefði faðir hans ekki komið að honum í þessum vandræðum hans.

„Hvað gengur að þjer strákur?" spurði faðir hans.

„Nú, jeg er að glíma við þetta árans *annes*: ég skil ekki hvað það getur þýtt. Kannske það eigi að vera Hannes, faðir minn— bara Hannes?"

„Rugl, strákur", sagði faðir hans, „þú þarft bara að komast í skóla, og læra til prests, og þá færðu að vita, hvað *annes* þýðir".

„Í skóla, faðir minn? Já ég vil fara í skóla, og þá fæ ég að vita, hvað þetta *annes* er—æ, já".

Svo var hann settur í skóla. Honum gekk þolanlega að læra, en við og við kom það þó fyrir, að hann tók til að glíma við eitthvert útlent orð, sem hann ekki skildi, og ekki hætti hann að staglast á því fyrr en kennararnir, sem héldu að

hann væri þreifandi fullur, skipuðu honum að hætta.

Og svo skrifaðist hann út úr latínuskólanum eitt vorið, og haustið eftir tók hann til að lesa guðfræði við prestaskólann. Honum gekk guðfræðisnámið ekki svo afleitlega, að undanteknu því, að hann þurfti nokkrum sinnum að tyggjast á vissum atriðum í biblíunni; — sérstaklega á þeim atriðum í Salómons-orðskviðum, sem snertu hræsnara og illmáluga heimskingja; en þó strandaði hann lengst á „úlfaldanum og nálarauganu“.

En einn daginn, þegar hann var sem ákafast að lesa undir burtfararprófið, fékk hann það innfall, að það væri reyndar vitleysa að vera að hugsa um það að verða prestur, þar sem prestar væru nú á hverri þúfu á landinu, og lifðu flestir við sult og seyru — það væri eiginlega ekkert vit í því. En hitt væri mikið skárra, að vera ritstjóri, því á því gæti maður slegið sjer upp í heiminum, — bara að hamra á náunganum og verða frægur.

Svo kastaði hann bókinni út í horn og hentist eins og vitstola maður inn til yfirkennarans.

„Hvað er þetta?“ sagði yfirkennarinn.

„Það er bara ég“, sagði guðfræðisstúdentinn; „ég er að fara“.

„Hvað? Eruð þér að fara fyrir fult og allt?“

„Já, ég ætla að hætta við að verða prestur“.

„Og hvað ætlið þér að verða?“

„Ég ætla að gefa út blað — skratti öflugt blað — verða ritstjóri“.

„Ég skil yður ekki almennilega“, sagði yfirkennarinn; „ég vænti þér séuð ekki — ekki — drukkinn?“

„Ég ætla mér bara að gefa út blað. Verið þér sælir“.

Svo skauzt hann út eins og fjaðrafoka, og kom aldrei framar inn fyrir dyr á prestaskólanum.

Nokkru síðar var hann seztur í ritstjóra-sætið, og ritaði hverja greinina á fætur annari í skratti-öfluga-blaðið sitt. Hann byrjaði á því að hamra á kirkjunni, svo á landsstjórninni, svo á verzlunarfélögunum, og svo á öllum menntastofnunum landsins; allt var hringlandi vitlaust í hans augum, og enginn var góður og fullkominn, nema hann einn. Allir hugsandi menn í landinu urðu hissa og horfðu agndofa á aðfarir nýja ritstjórans; og allir luku upp sama munni með það, að maðurinn væri brjálaður. Vandamenn hans komu langar leiðir til að finna hann og áminna hann með kristilegri hógværð; en það varð til þess, að hann skrifaði svo langa ritstjórnargrein um „sletturekuskap vandamanna“, að hún fyllti út blaðið í heilann mánuð. Litlu síðar heimsóttu hann fimm helztu prestar amtsins, og ætluðu endi-

lega að mýkja hugarfar hans og snúa honum á rétta leið; en öll þeirra mikla mælska og andríki varð þar að engu. Hann sagði þeim bara að snauta burtu úr sinni skratti-öflugu-skrifstofu, og þakka fyrir, að komast heim ómeiddir; en áður en þeir voru komnir heim til sín, var blaðið hans komið út um allar sveitir með stóreflis skammir um „fimm förupresta", sem hann kallaði. Svo tóku nokkrar konur sig til, og keyptu ljómandi fallegan hægindа-stól, og sendu ritstjóranum, og létu bréf fylgja með, þess efnis, að þær vonuðu svo góðs af honum, að hann hætti nú, að láta sinn refsidóm ganga yfir þjóðina, því nóg væri komið. — Þær vonuðu, að hann léti nú að orðum þeirra. En undir eins og stóllinn var kominn í skrifstofuna og ristjórinn var seztur á hann, ritaði hann afarlangan áminningar-pistil um „fáfræði og einfeldni kvennfólksins".

Og svona gekk það til um hálft annað ár, að enginn gat við hann ráðið. Hann kallaði alla aðra ritstjóra „lúsapésa", og öll skáld „leirskáld", og allt fannst honum „sjóðandi lokleysa", nema það sem hann samdi sjálfur.

En þegar hann var búinn að vera við blaðamennskuna í hálft annað ár; þá kom það fyrir einn dag, að hann allt í einu kastaði penn-

anum frá sér, og ruddi öllum blöðum og bókum af borðinu.

„Heyrðu hérna, Simbi“, sagði hann við einn prentarann, „ég hefi hérna nokkuð skrítið að segja þér“.

„Og hvað er nú það?“ sagði Simbi.

„Það er ekki annað en það, að ég er mesti maðurinn í heiminum; ég komst að því rétt áðan“.

„Nú“, sagði Simbi og glápti á húsbónda sinn.

„Þú segir ‚*nú*‘, þrjóturinn þinn! Veiztu ekki að þú átt að bera lotningu fyrir mesta manninum í heiminum“, sagði ritstjórinn og rak Simba um leið rokna löðrung.

„Ég — ég —ég vissi það ekki“, sagði Simbi „ég bið fyrirgefningar“.

„Nú er ekki tími fyrirgefningarinnar, þrjóturinn þinn“, sagði ritstjórinn með ógurlegri röddu. „En farðu nú og sæktu hann Nonna og hann Sigga, og segðu þeim að fylgja mér inn í stofu; því mesti maðurinn í heiminum verður ekki í þessu bannsetta rottu-bæli lengur“.

Í einu vetfangi voru allir prentararnir komnir utan um ritstjórann.

„Leiðið þið mig nú inn í stofu, þrjótarnir ykkar“, sagði hann. „Nonni, haltu undir hægri

handlegginn á mér, en Siggi undir þann vinstri; en þú, Símbi, skalt bera hattinn minn á eftir".

Svo gengu þeir þannig inn í stofu. Ritstjórinn lét setja alskonar rétti á borð fyrir sig; og svo þegar hann var búinn að borða lyst sína, heimtaði hann pott af rommi, og annan af koníaki, og drakk svo þar til hann datt út af stólnum stein-sofandi.

Þegar hann svo vaknaði daginn eftir, var hann ekki lengur mesti maðurinn í heiminum; því þá fannst honum hann vera lítil og brothætt brennivínsflaska, og var stöðugt að biðja þjónustustúlkuna; að hleypa engum manni sem þætti gott brennivín, inn til sín, því hann yrði þá máske drukkinn í botn. Eftir nokkra daga fannst honum hann vera eitt afarstórt óskurnað egg, og þá grátbændi hann alla, sem komu inn til hans, að snerta sig ekki, því það yrði sinn bani.

Í þessu ástandi var hann margar vikur, og þá komst það loksins inn í höfuðið á honum, að hann væri ljómandi fallegur demantshringur, og var dauðhræddur um, að sér yrði stolið; en til að koma í veg fyrir það, var maður með skammbissu í hvorri hendi, látinn sitja við rúmið hans nætur og daga. Einu sinni fékk hann það innfall, að hann væri loft-bátur, og var dauðhræddur um, að hann mundi þá og þegar þjóta upp í loftið, og villast eitthvað endalaust út í geiminn; en til

þess að afstýra þeim óskópum, varð að binda hann við rúmið með spánýjum köðlum, og láta mann vera til að gæta að því, að ekki losnaði um hnútana. Í eitt skiftið hélt hann, að hann væri nýfætt barn, og skipaði að reifa sig í silki, og leggja sig í vöggu, og láta sig hafa dúsu, og beztu barnfóstruna, sem findist í landinu, og til þess að kíghóstinn kláraði hann ekki, varð læknir allt af að vera við hendina.

Og ótal fleiri innföll fékk hann; en hið síðasta var það, að honum fannst hann vera púðurtunna, og bannaði stranglega, að láta eld vera í húsinu, og aldrei mátti hann sjá ljós, því hann óttaðist, að það kynni þá að kvikna í sér.

Loksins lét hann hola sér niður í jarðhús nokkurt, og þar trúi ég hann sé, þann dag í dag.

*Arnljótur B. Olson*



*Arnljotur B. Olson*

## Litla stúlkan.

---

Segðu mér söguna aftur — söguna þá í gær —
Um litlu stúlkuna með ljúfu augun og ljósu flétt-
urnar tvær.
Var hún ekki fædd úti' á Íslandi og alin þar upp
á sveit,
Og send hingað vestur á sveitarinnar fé, — með
saknaðartárin heit?
Hún var þrettán ára, eða þar um bil. — Jú, það
voru þín orð.
Þú sagðir að sárt hefði' hún grátið, er settu þeir
hana um borð;
Og er gusurnar gengu' yfir skipið, sem gnötraði
og veltist á hlið,
Þá bað hún svo vel, og þá bað hún svo heitt: „æ,
blessaðir snúið þið við!"
Aumingja barn! það var ósköp sárt! En átakan-
legra var hitt,

Þegar vestur hún kom til Winnipeg, og vildi sjá skyldfólkið sitt,
Að fólkið hennar var farið — hún fann það ekki þar.
Þú sagðir, að þér hefði runnið til rifja hve raunaleg hún var
Í innflytjenda salnum, er sat hún svo sakleysisleg og hljóð,
Og reyndi að hylja með hyrnunni sinni' 'ið heita tára-flóð.
Veslingur, henni var vorkunn! Og víst var það nokkuð hart,
Að segja við 'ana: „Hættu að hrína! — Hestarnir koma nú snart —
Með karlinum keyrirðu út á land, og kemst þar í góða vist.
Skældu' ekki meira! — Skárr' er það! — Jeg skal nú verða byst!"
Svo fór hún einhverja langa leið út á land, eða var ekki svo?
Og fremur gott var fólkið við 'ana fyrstu dagana tvo.
En svo þrutu gæðin meir og meir, og margsinnis var það hún grét,
Þá kerlingin krepti hnefann, og karlhrófið fólslega lét.

Þau börðu' hana trúi' jeg svo bólgin hún varð,
og blæddi' undan svipunni þrátt;
Þau létu' hana vinna þó væri hún sjúk – já, vinna
allt stórt og smátt.
Henni leiddist svo mjög, hana langaði heim. Já,
láttu mig heyra um það,
Þegar hún tók til þess barnslega bragðs, að búast
um nótt af stað.
Hún komst út um gluggann með kistilinn sinn;—
en koldimm var nóttin og löng—
Svo hljóp hún til skógar eins hart og hún gat. —
Hún hræddist ei myrkviðar-göng.
Hún þekti' enga leið, eins og vonlegt var — hún
viltist — hún missti þrótt (?)
Og hver getur sagt hvert hún lenti, eða hvað hún
leið þá nótt?
En líklegast hefir hún lagt sig til svefns, þá lúin
hún orðin var,
Og, ef til vill, aldrei vaknað — já, andast í skóg-
inum þar.
Já, hver getur sagt hvaða þrautir hún leið, eða
hvernig hún lífinu sleit?
Og oft hefir verið að því spurt, en enginn maður
það veit.
Æ, segðu mér söguna aftur—söguna þá í gær —
Um litlu stúlkuna með ljúfu augun og ljósu flétt-
urnar tvær.

# Ungu hetjurnar.

Á leiksviði æskunnar léttfættir dansa þeir,
Gortandi af gáskanum,
Og gæta' ei að háskanum;
Í hégóma-skrautinu glitrandi, glansa þeir.
Við taktinn og tízkuna
Tengja þeir vizkuna.
Lögmáls-raust tímans með „tra-la-la“ anza þeir;
Og hendast fram hoppandi,
Hringsnúast skoppandi;
Og aldrei — unz valsinn er endaður — stanza þeir.

Flangsinu, glensinu' og flónskunni hæla þeir;
Þykjast svo þróttugir,
Þolgóðir — *slóttugir.*
Um alls konar smámuni ákafir stæla þeir;
En *kverið* þeir kunna' ekki,
Og kirkjunni unna' ekki.
Af sérhverju mótdrægu skjálfandi skæla þeir,
Svo daprir og duglausir,
— svo dæmalaust huglausir.
Og svíkji þá stúlkurnar, veina þeir — væla þeir.

